# Frá

# Grænlandi,

samantekid

af

Sigurdi Breidfjörd.

Raunin er óliguust.
Orzháttur.



Kaupmannahöfn, 1836.
Prentad hjá P. N. Jørgensen, á kostnad
Br. Benedictsens.

Tileinkad

herra Gudmundi Pjeturs-sini,

kaupmanni í Reikjavík,

af

høfundinum.

## Lesari!

Fráságukorn þetta um Grænland og íbúa þess, hef jeg einkanlega biggt á sjálfs míns reinslu og athugasemdum, medan jeg dvaldi þar í landinu um fjøgra ára tíma, og mjer vard vídfarid um sudurhluta þess. Þó hef jeg sem minnst gjetid þeirra hluta, sem mig sjálfann áhræra, þar jeg sá þad mundi gjera bæklinginn stærri, og þeim mun dírari kaupendum; enda ætladi jeg mjer ekki ad semja neina dagbók um forløg mín þar í landinu. Hitt var áform mitt — þar jeg veit Íslendinga ekki eiga á sínu máli neinar fráságur um seinni forløg þessa lanz, er þeir fordum biggdu — ad bæta nokkud úr þessum skorti.

Þad sem hjer verdur ritad af nordurhluta Grænlanz, er eptir fráságu þeirra manna, er þar hafa dvølum verid, og mjer sídar samtída, því aldrei kom jeg sjálfur nordur þángad, leingra enn ad Holsteinsborg; Þóttu mjer søgur þeirra ekki midur merkilegar, enn bækur ímissra rithøfunda, er aldrei høfdu Grænland sjed, eda neinn af íbúum þess. Þó hef jeg um ímsar fornmenjar í sudurfjørdum lanzins, sem jeg hafdi ekki tækifæri sjálfur ad skoda, lagad fráságu mína eptir ritgjørdum Einars prófasts Þórhallasonar, sem leingi

var á Grænlandi, og bædi var eptirtektasamur og lærdur vel i fornsøgum vorum og ødrum visindum. Líka hafdi jeg til samanburdar vid þad sem mjer bar firir augu dagbók "Arktanders" nokkurs, sem ferdast hefur um alla Sudurfirdi, og skirir hún vída allgreinilega frá þeim fornmenjum, er þar finnast. Pólhædina vid hvurn kaupstad hef jeg sett eptir korti herra "Kapitain-Lieutenants Graahs," sem nílega hefur ferdast um Grænland, ad leita uppi fornmenjar austanvert á landinu, sem þó ekki fundust þar til muna; enn áminnst kort hanns ifir allt Grænland, mun vera hid áreidanlegasta, sem nú er til.

Litinn vidbætir, er jeg ádur hafdi samid um háttu Grænlendinga, þá er nitir mættu verda úti á Íslandi, set jeg aptan vid frásøgnina um Grænland; þótti mjer sem af vidbæti þessum mundu þeir eitthvad gjeta nitt, er rækt vildu áleggja.

Þannig hefi jeg gjørt grein firir kverj þessu, á hvada røkum þad sie biggt, og í hvurjum tilgángi þad sie samid; hef jeg nú því einu vid ad bæta, ad jeg bid landa mína taka ekki hart á ófimni minni ad rita sundurlausann stíl, sem jeg hef ekki ádur tekid mjer firir hendur ad reina.

Ritad i Stikkishólmi; 10. marz, 1835.

S. Breidfjörd.

# 1. Grein.

## Frá Grænlandi.

Land þetta er firna lángt, so mønnum hefur ekki tekist ad kanna; søkum ísa vid nordurenda þess; enn hitt vita menn, ad þad er vídast næsta mjótt. Þad geingur frá útsudri til landnordurs, hjerumbil mitt á milli Íslanz og nordurhluta Vesturálfunnar. Þad er hvervetna skorid inn med laungum fjørdum, og alstadar umgirt miklum eía-klasa. Á tíundu øld eptir Krists burd hafa Íslendíngar numid þar land, og sett bigdir sínar á sudurenda og vestursídu lanzins; enn eru nú undir lok lidnir. Búa þar sídann Skrælingjar, sem menn ætla kinjada úr nordurhluta Vesturálfunnar, og komna til Grænlanz ifir ísa; firrum voru þeir mjøg heidnir og villtir, enn hafa nú velflestir látid skírast, og rækja vandlega trú sína. Eingínn kann frá því ad seigja, hvad lángt sje umlidid, sídann kinþáttur landnáms-manna á Grænlandi væri gjørþrotinn, eda hitt, hvurra orsaka vegna slíkt hafi adborist; því eíngin sigling kom til lanzins tvø hundrud vetra. Nokkrir seigja, ad svarti daudi, sem geisadi ifir heiminn á 14. øld, og hófst í Sínveldi, og endadi á Grænlandi, hafi eitt gjørsamlega øllum landnámsmønnum. Adrir halda, ad ósamþikki vid Skrælingja hafi ollad

stirjöld, og hafi Nordmenn verid ofurlidi bornir. Þá gátu sanna sjálfir Skrælingjar med frásögum sínum.

Nú hafa Danakonúngar látid skíra Skrælingja, og hafa verzlun alla í landinu. Þar eru hjerumbil 6,000 Skrælingja hjer og hvar um landid; enn 150 Dana í øllum kaupstødunum. Landinu er skipt í 2 umdæmi ("Inspecotrater"), hid nirdra og hid sidra. Eru þar 13 høfud-kaupstadir eda nílendur ("Colonier"). Nordast er "Upernavik", undir 72° 48'; þá "Umanak", undir 70° 40'; þá "Rittenbenk", undir 69° 40'; þá Gódhøfn, á einni "Diskó", undir 69° 15'; þá Jakobshøfn, undir 69° 12'; þá Kristjánsvon, undir 68° 43'; þá Egjedaminni, undir 68° 40'. Í sidra umdæminu: Holsteinsborg, undir 66° 50'; þá Sikurtoppur, undir 65° 22'; þá Gódvon, undir 64° 10'; þá Fiskines, undir 63° 40'; þá Fridriksvon, undir 62° 0; þá Júlíonuvon, undir 60° 42'. Þaradauki eru í landinu 15 minni verzlunarstadir; "Kláshøfn" er þeirra mestur. Þar eru 6 kirkjur; sømuleidis 6 prestar. Enn þared kirkjurnar eru of fáar, verdur opt ad flitja embætti í grænlenzkum híbílum, eda varningshúsum verzlunarstadanna.

## 2. Grein.

### Firsti morgun á Grænlandi.

Eptir átta vikna útivist í hafi, hófust Grænlanzkindar upp úr nætur og þoku skínum, 17. maí 1831, árla morguns; og vorum vid þá enn átta vikur undan landi. Hvurt fjall var þá ennþ í alhvítum

vetrarstakki, og dró til sín kaldann anda nordan úr hafi. Þá tók jeg eptir því, ad fjöllin á Grænlandi eru ekki nærri því eins há, og jöklarnir á Íslandi, ad undanteknum Himinraka, Södli og Hvítserk, er sídar verda nemd. Enn hjer er því meira af fjöllunum; því lítid sjer til undirlendis milli þeirra og sjávarinns.

Einni viku firir utan kaupstadinn í Sikurtoppi, komu til móts vid oss allt í einu fjórir húdnökkvar, þeir er konur róa, og vjer köllum kvennbáta; fjórar stúlkur rjeru hvurjum þeirra, enn kallmadur sat í skut med stjórnarár í höndum. Þaradauki komu 16 skinnbátar („kaiakkar") móti oss; rær einn madur hvurjum þeirra, med einni ár tvíbladadri, sem hann á vigsl tekur eitt árartog med, sitt á hvurt bord. Skinnbátar þessir eru hnífla á milli 7 álna lángir, hjerum alinuar breidir, og hálfa alin á dipt; þeir eru þannig gjördir, ad trjegrind er ad innan, og þanid um selskinn, og lokad ofanvert; þará er gat í midju, so stórt ad eins, ad madurinn fái sjer þar nidurkomid, og situr hann þar rjettum beinum ad ródri, hvurt sem hann fer. Bátar þessir eru háskalega valtir, og hafa Grænlendingar þá helzt til selveida og fuglafángs, stundum í ofvidrum og ólgusjó; því þó undir þeim hvolfi, eru þeir frá barnsbeini ordnir því so vanir, ad þeir ódara reisa sig aptur. Húdnökkvarnir (kvennbátarnir) eru eins gjördir og úr sama efni; þeir eru 12 álna lángir, og 3 álna breidir. Grænlendingar hafa þá til flutninga og stærri veida.

Líka kom frá landi kaupmanns-ferjan, af vidi gjör, med dönsku bátalagi, og veifadi konúnglegu flaggi. Kvennbátarnir tóku nú sinn vid hvurjum kadalsenda, ad

róa firir hafskipinu inn eptir firdinum; því okkur þraut vind; og fór það fram með miklum saung af þeim konunum. Súngu þær í sífellu, og allar í senn: "umiar- suit tikipok" (stóra skipið er komið).

Mjer varð um hríð starsínt á stúlkur þessar, allar í loðnum hreinskinnabrókum, sem náðu niðrá knje, og hvítum eltiskinnsstökkum; þeir voru briddir, og lagðir með mjóum borðum af lituðu selskinni, rauðum, blám, eða hvítum. Þær hafa firna mikið hár, sem nær að mitti, og stundum í knjesbætur. Það vefja þær í hnánn vindil upp af hvirflinum, og fer þeim það vel; því um hann er vafið silki-borða eða briddingar-borða. Giptar konur hafa blá hárbönd, ógiptar barnamæður græn, ekkjurnar hvít, enn óspjallaðar meiar hárauða borða. Og má þannig þekkja sundur allt kvennfólk á Grænlandi — nema ef rauða borðann væri ekki æfinlega að marka! Mikið var um hlátra, saung og mælgi þessara kvenna, sem hefur að líkindum orsakast af skipkomunni. Kallmenn á skinnbátunum voru fálátari og alvörugjefnari, og rjeru þeiandi við hlið skipsins, og blíndu upp um áhöld vor og reiða.

Loksins komum við inn á höfnina, og er hún að- dáanlega góð, enn landið umhverfis næsta ófagurt — einlæg klettabelti öllumeigin hafnarinnar; og má so að- kveða, að hvurgi sjái stíngandi strá. Í þessum kaup- stað eru 7 timburhús, og stendur hann í litilli lág, milli umgjetinna kletta; einnig eru þar 8 hús Græn- lendinga, ekki simlega biggð; enn inn í þau híbíli vil jeg ekki að þessu sinni leiða lesarann, því ekki kom jeg þar sjálfur firsta missirið, sem jeg dvaldi við Sikurtopp.

Þegar í land var komið, var mjer vísað á þjónustukonu grænlenzka, sem taka átti við ferðaklæðum mínum til þvotta og aðgjörða. Vörðustum við bæði sem best gátum, um þetta efni, með táknum og bendingum. Var hún heldur stigg og snúðug í firstu; enn við eitt brennivíns-staup og tvær braudkökur tók hún töluverðum bata, og færði mjer skömmu síðar flikki af sel hálfsoðið með spiki og skinni, og benti mjer að matast; enn þareð krásin var heldur ótjerlega framreidd, vildi jeg ekki, og var þá úti vináttan að því sinni.

## 3. Grein.

### Dránganess-ferð, og fleira.

Þetta sumar, síðla í júlí-mánuði áttum við að fara með duggu eina til að sækja grænlenzkann varning suður að þeim stað, er Dránganes heitir, eða Hánes (Napparsok), átta vikur suður frá Sikurtoppi. Var allur sá vegur að fara um mjó sund millum eia; og er þar víðast mikið eggvarp, mest svartbakar, mávar og kríur, líka hjer og hvar æðarfugl og teistukofur. Ekki er óskjemtilegt þar að ferðast. Því þó landið sje ekki allfagurt, og meigi fremur kalla grátt enn grænt: er ekki að sidur indællt að fljóta í liðandi lognstraumum gjegnum hin örmjóvu og krókóttu eiasund, þar ekkjert brim eða sjóar-ókirð nær inn að brjótast; því þó hafrót og hvassviðri sje út til djúpsins, er leiðin, bæði hjer og víðast kringum Grænland, eins og á stöðuvötnum, nema þegar róa skal ifir fjarðaminni, sem sjaldan eru breiðari enn heil vika eða hálf; eru þó

firdirnir flestir afarlángir, og skjera sig í mørgum mjóum greinum inn í landid. Þar eru flód og fjørur eflaust ekki minni enn á Íslandi, og má um háflædi fara þar hafskipum, sem þurt var ad útføllnum sjó. So var mikid um hrognkjelsi, ad vjer á leid þessari tókum 26, med høndum og krókstjøkum. Ekki kvedur minna ad síld um þennann tíma; því sjórinn allur er þar af henni fullur, so hægt er á hálfum deigi ad hlada kvennbát, med því ad ausa upp hjá bordinu, med til þess gjørdum netausum á tveggja álna laungu skapti, síldina lifandi. Þessi síldar-tegund er hin sama, sem vjer køllum lodnu á Íslandi; og er hún gód átu, bædi ní steikt eda sodin, og einnig ef þurkud er. Þegar Grænlendingar hafa fillt bát sinn af síldinni, bera þeir veidina upp á sljettar hleinar, og þurka med høfdi og hala í flekkjum, er snúa verdur, álíkt og þegar þurkad er hei úti á Íslandi. Þessi lodnu-síld er ad sønnu allt sumarid vid Grænland; enn veidist þó ekki leingur enn mánadartíma, frá midjum júní til þess júlíus er hálf-lidinn; því þá geingur hún inn í innstu víkur, og má þar vida standa á þurru landi, og ausa sem vænt þikir. Síldinni filgir líka þorskur, heilagfiski, hákall og hvalir.

Med þessum athugasemdum komum vid ad firrnemdu Dránganesi, og var ekki mart manna firir ad hitta; því Grænlendingar, sem búa þar á vetrum, voru í síldfiski og selaveri inni í fjardabotnum. Enn þar voru þess fleiri mannamenjar, sem gáfu illann daun, og údi þar allt umkríng af madki og allskonar óþrifum, fúnudum skinnfatnadi, sela-innisflum og annari óþekkt. Þó kvad mest ad þessu kringum húsa-

mindir Grænlendínga; og voru þau sjálf innán sokk-vandi madkaveita. Ekki ad sídur sá jeg Grænlendínga, sem med okkur voru, grafa upp úr forinni úldna og fúna selhreifa og garnir, er sendu stækann þef lángt ad; enn þeir lögdu sjer þetta til munns óþveigid og út-atad, og, sem furdanlegast var, töldu þetta sælgjæti, og vildu heldur eta þad, enn óskjemmda og góda fædu.

Jeg gjekk sem first frá þessum vidbjódslega stad, med tveimur Donum, upp um hædir nokkrar; og þar hafdi hin módurlinda náttúra framreitt á fullum bordum sínar lifandi krásir í grænum hvannteigi. Vid ljetum þegar bera þángad tjald vort, og annann farángur, og tókum þar vallstad; nema tveir menn, sem vaka áttu á dugguuni. Nes þetta er umflotin ei, ærid mikil, og med háum fjöllum. Vída er hún grasi prídd í lágum og dölum, enn óþrifa kafgresi liggur vid húsabigdina. Þartók jeg tvo arnar-únga, og flutti heim med mjer; henti jeg leingi gaman ad edli þeirra; enn þegar vetra tók, skorti mig fædi handa þeim, so þeir fóru ad temja sjer gripdeildir vid Grænlendinga, og ad sídustu lá vid þeir rjedust ad smáborunum, og voru því skotnir ad jólum, og átu Grænlendingar þjósiná.

## 4. Grein.

### Hákallaveidi vid Margvidrn ("Ikamiut"), og grafir heidinna Grænlendinga.

Þegar jeg hafdi haft sögur af Grænlendingum, hvar helzt mundi vera, þar í nánd vid Sikurtopp, veidilegt

til hákalla, sem jeg átti að reina til að draga á haldvað, eptir því sem títt er á Íslandi: fjekk kaupmaður mjer hvalveiðaskútu, og fjóra menn grænlenzka til filgðar. Einn þeirra var grænlenzkur í aðra ætt, og danskur í hina, og skildi nokkurneiginn danska túngu; átti sá að vera túlkur minn við landa sína. Grænlendíngar rjeðu mjer að fara upp í fjarðarbotna, 3 vikur burtu frá kaupstaðnum; og þó mjer þætti kinlegt að haga þannig ferðum til-hákallaveiða, ljet jeg þá þessu ráða. Sá staður, er til skildi fara, heitir Margviðra ("Ikamiut"). Við höfðum nesti til hálfs mánaðar; því ekki átti skjemur að þreita veiðina. Grænlenzk stúlka var til þess feingin að þjóna okkur, og annast um matreiðslu. Fór jeg so á stað með þessum útbúnaði. Enn á miðri leið kóm á rjúkandi útsinníngur, og hrakti skipið óðfluga upp á milli hárra fjalla, og hafði þar fellibilur næstum endað ferðina. Þó náðum við þar landi að kveldi dags, og bundum skipið. Steipandi stórhríð, ásamt ofviðrinu, hafði verið á, frá því um morguninn, og urðum við að tjalda á sljettri grund, mjög votri, og var þar ekki físilegt náttstað að taka. Morguninn eptir bar það til tíðinda, að upp hafði slitið ferju vora, var hún fjörud uppi við kletta nokkra, og mjög brotin á annari hliðinni. Þótti þetta bagi þar á eiðilandi, er eingir lán veigir til mannabigða. Varð mjer það þá að ráði, að bæta götin með brimilshúð, sem við höfðum meðferðis; enn þó vildi það ekki takast sem bezt; því jeg var í naglaskorti, til að seíma eins náið og viðþurfti. Næsta morgun var báturinn að sönnu borðstokkafullur, enn

vard samt á stuttum tíma þurrausinn. Dró jeg hann á land med háflódi; því vedur var hvurki til ad veida nje ferdast.

Skammt frá tjaldi okkar voru fornleidi heidingna Grænlendínga, og físti mig ad vitja þeirrá. Legstadir þessir eru steinbirgi á holtum og hædum, næsta gisin, og vída nidurhrunin; sá þar inn vída, hvar beinagrindir láu, sumar mjøg fúnar. Hjá þeim voru løgd øll veidarfæri þeirra: skutlar, knífar, ørvar og fuglaskeiti. Enn þetta er allt úr steini; því ekki høfdu þeir á járni vøl, firr enn Danir ad nýu hófu þángad kaupferdir; hafa Grænlendíngar þángad til brúnt hvurn steininn á øðrum, og búid so til verkfæri. Hjá konunum liggja kippur af þorskabeinsnálum, sem þær hafa þá ordid ad nota. Ekki eru bein heidingja þessara stærri enn medalmanna nú á døgum; enda eru allir skrælingjar smámenni. Undir einum hellisskúta fundum vid 6 manna bein, og veidarfæri þeirra þar hjá. Vildi jeg nokkur á burtu hafa; enn þá høfudsmud vildu fylgdarmenn minir ekki láta vidgángast; kvádu þadan rísa mundu illa drauma, og óvedur so hørd, ad vid feingjum þadan aldrei med lífi komist; báru þeir mig þá um þetta so ofurráda, ad jeg vard ad láta kirt. — Ad morgni var vedur fagurt, og físti mig í hákallaleit, þó ferjan væri bæklud mjøg. Voru lagsmenn minir þessa trandir; enn jeg rjed þó, ad farid var. Ljet jeg þjónustu-stúlku okkar med fara, og hafa føtu í hendi. Þvínæst hjeldum vid frá landi hjerumbil 100 fadma, og løgdustum vid stjóra, þar sem mátti botna med sertugum vad. Stúlkan þurfti stundum ad taka til føtunnar; enn þó var þad med hvíldum.

Þar dró jeg um daginn 8 hákalla með þremur tunnum lifrar, og lenti með þá um nónbil. — Næsta dag var veður heim að halda, og þótti eigi ráðlegt að bíða það af sjer, af því ferjan okkar var ekki til frambúðar, enn við áttum heim 3 vikur sjávar, víðast samt með landi fram. Heimferðin tókst okkur óhappalaust, og skiptust menn til að ausa í báðum skömnum; komum við heim að áliðnum degi, og sögðum ferð okkar ekki sem besta.

## 5. Grein.

### Hreindíra-veiði og heiskapur við Sund („Karsuk").

Sama ár um haustið lögðum við á stað, 6 menn á skipi, og 5 stúlkur á grænlenzkum kvennabát, sem með okkur átti að vera, og áttum við nú að veiða hreindíri, og afla heia handa 3 geitum, er kaupmaður átti; hann var sjálfur með í ferðinni, og ljet ekki skorta ölfaung, og aðrar nægtir er hafa fisti. Við áttum í logni að róa 7 vikur, og lenti það á stúlkunum að mestu leiti; því við feingum þeim taug af voru skipi, og ljetum þær so róa firir því; sátu þær kófaðar og naktar að ofan, og var það ekki að mínum vilja, því mjer þótti þeim vera heldur ofboðið. Sá vandi er á, þar sem grænlenzkt kvennfólk er á skipi, að lenda verður, nær sem einhvur þeirra þarf að gjegna nauðsinjum sínum; og er því tafameira, sem fleiri eru í ferðinni; því sjaldan ber þörfum þeirra saman. Ekki seigja þær neitt, enn leggja upp árina,

og setjast þeigjandi fram i stafn; er þá ráð að lenda, hvar sem first verður. Þetta tafði mjög ferðina; þó komum við um kvöldið að tilteknum stað, er Sund ("Karsuk") heitir; það er á nesi, undir háu fjalli, sljettu og grasi grónu. Fjall þetta kalla Danir Ugga ("Findefjæld"); enn jeg ætla, að vera muni Hvitserkur, af þeim rökum, að það er eitt af þremur hæstu fjöllum á Grænlandi, og jafnhátt tilsiudar, hvurjumeigin sem við landið er siglt. Fjallið er að neðan firna mikið ummáls, enn upp úr því stendur æði hár hnúkur, með tveimur hornum eða tindum, og er hann jökulbirgður árið um kring. Fjallið liggur undir 65. mælistigi, nærri móts við Snæfellsjökul á Íslandi.

Nú er til hins að vikja, að á firrtöldu nesi reistum við tvö tjöld, annað handa konum, enn hitt handa köllum; og lisir það nóglega sidsemi okkar í ferð þessari. Næsta dag tóku menn til sláttar; og þó mjer væri ekki ætlaður sá starfi, rjeðst jeg til eigi að síður, þegar jeg sá ófimni Grænlendinga, og hafði ljá einn furðulega mikinn. Stúlkurnar skildu raka jafnóðum, og þurka; gjerði jeg þeim heldur erviðann rakstirinn, þar jeg, fremur enn þörf var á, sló sinn topp i hvurjum stað viðs vegar, og urðu þær að elta það laungar götur. Að kvöldi var sleigið eins mikið og þurfa þótti. Næsta morgun geingum við á fjall 3 saman; kaupmaður okkar, matreiðslu-maðurinn og jeg, og ætluðum að skjóta hreindiri; allir höfðum við ágjætar bissur og nokkurt nesti; snjerum nú að fjallinu, sem jeg kalla Hvitserk, og geingum i stór-rigningu allann daginn, þángað til við komum uppá fjallið allt undir jökul-hnúkinn; fundum við þar hellisskúta, og tókum okkur náttstað i einum

þeirra; því rigning var og óvedur, so úr hófi keirdi; 6 hjera veiddum vid á fjallinu, og gjerdi eldamadur glódir af língi undir sljettri hellu, og steikti þar á 2 til kvøldverdar okkur; og þó þeir væru hálfhráir, þótti þad sælgjæti, med tveggja marka fløsku af gódu rommi. Sídan urdum vid ad snara okkur á steinana, og hafdi sinn daudann hjera hvur okkar í svæfils stad; leid so af nóttin. Enn um morguninn var vedur allgott og heidríkt. Þá vard sundurþikki nokkurt millum okkar kaupmanns. Vildi hann veida dir um fjallid, enn mig fisti ad komast uppá jøkulinn. Fór þá sína leid hvur okkar; eldamadur filgdi kaupmanni, enn jeg rjedst einmana á fjallid ad gánga, og áttum vid um hádeigi ad mætast aptur í helli þeim, er verid hafdi náttstadur okkar.

Af minni ferd er þad ad seigja, ad jeg komst, med hardfilgi og ekki óttalaust, upp eptir snjógili einu, og upp í jøkulskardid milli beggja hnúkanna, og litadist þá um ifir Grænland, sudur og nordur. Jeg sá til beggja hlida endalausann jøkulhrigg, enn ekki fjarska háann, med isbláum, botnlausum jøkulsprúngum, glotta móti mjer; og þóttist jeg þar, einmana á háfjallinu, heldur vera heima ámilli. Jeg sá ad sønnu jøkulhrigginn fara lækkandi austur í landid, enn ekki veit jeg firir víst, hvurt þokubakki í austrinn, eda nír jøkulhriggur, hinum hærri, fal sjávarsín hinumeigin lanzins; þó er þad gáta mín, ad þar sje landid ørmjótt, enn ørdugt eda ófært ifirferdar firir jøkulsprúngum. Jeg renndi augum upp um tindana, enn þóttu þeir ekki árennileigir, og fór ofan sama gil, og upp var geingid. Kom jeg ad álidnu hádeigi ad helli

okkar, enn þá var þar ekki manna. Þoku tók ad draga ifir fjallid, og tók jeg nú á rás sjónhending til sjávar á móti vindi, enn vindur bljes vestan úr hafi. Ekki var lángt farid, ádur jeg sá ekki, ad kalla mátti, fram firir fætur mína, firir þoku og sudda; fór jeg þó um hríd sem horfdi, þángad til jeg heirdi, nordanvert vid mig, köll og mannamál, ekki lángt í burtu. Samt hjelt jeg áfram, þartil er jeg kom nidrá brúnina; þar var kaupmadur í standandi vandrædum, og gat hvurki komist áfram sjálfur, nje heldur bjargad matreidslumanni, sem kominn var í ógaungur, so ad hann komst hvurki upp nje ofan. Jeg var so heppinn, ad hafa hjá mjer snærishaunk, fárra fadma lánga, med henni og tveimur snitu-klútum tókst okkur ad frelsa manninum. Nú leitudum vid til ad komast ofan fjallid, og tókst þad um sídir á hálfrokknum deigi, og var þá þokunni ljett, þegar nidur kom í dalina; og komum vid ad midri nóttu, þjakadir og feignir, til tjalda vorra. Ekki þurftum vid veidinni ad hæla; því hjerana, sem leifdir voru, hafdi elda-madur fellt úr höndum sjer í ógaunguunum. Enn þó urdu nú fagnadarfundir med okkur og samfilgdarfólkinu, og sigldum vid heim þadan tveim dögum sídar.

## 6. Grein.

### Kaupferd til Margvidru („Ikamint").

Þad var ári sídar, skömmu eptir jól, ad ísa braut af fjördum, og sendi kaupmadur hjástodarmann („assistent") sinn ad kaupa spik og skinn af Grænlend-

ingum uppi vid Margvidru („Ikamiut“), sem firr er nefnd, og skildi jeg med fara, og bædi stirkja hann til kaupverzlunar, og lika vera túlkur hans vid Grænlendinga, þar jeg var þá farinn, sökum vidkinningar vid þá, ad gjeta fleitt mjer nokkud í málinn, þó það sje ekki sem andskildast.

Vid höfdum stóra ferju og 6 menn vid árar, og sigldum heppilega upp þángad á einu dægri, og fögnudu Grænlendingar okkur ágjæta vel, og leiddu okkur inn í vetrarhibili sín, þar aldrei er skortur á hita; var þá first frambori heitt smáselakjöt, sem ekki þikir lök fæda; enn hitt var heldur óadgeingilegt, ad maturinn var lagdur í hrúgu nidrá blautt moldargólf. Þar áttu nú allir ad setjast í hring utan um hrúguna, og hafdi sá best úr bitum, sem gat nád efstu limunum, er ekki höfdu atast á gólfinu. Enn ekki má um þetta ásaka veitendur okkar; því allir Grænlendingar hafa þann sid, ad leggja matinn á gólfid. Það er einn matsidur Grænlendinga, ad þeir skjera hvurn bita frá sjer, og so stórann ad varla verdur kingt. Þegar lokid var selakjötsveizlunni, var framborid hert hreindirakjöt med tólki; og ad sídustu feingum vid kaffi; það hafa Grænlendingar furdu megnt þó í það vanti bædi sikur og rjóma. Ad þessu búnu, fórum vid ad verzla; og med því þar búa ekki fleiri enn 10 bændur, var því lokid um midnætti; og sváfum vid það eptir var næturinnar í hvílupokum okkar á gólfinu.

Um morguninn fórum vid heim á leid med hladid skip af skinnum og spiki; rjerum vid first í logni, þángad til sjóinn fór ad skjæra, og minkadi gáng-

urinn. Um dagsetur vorum vid ekki komnir meir enn hálfa leid, enda máttum vid þá hvurgi komast, þvi so fljótt leggur þar isa, ad á einu dægri verda mannheldir. Fórum vid nú útbirdis, og brutum firir skipinu, enn sumir drógu þad med krókstjökum. Med þessum hætti feingum vid komist hjerumbil 50 fadma. Leid þá ad midri nóttu, og lögdumst vid nidr i ferjuna; enn ekki vard af svefni firir kulda og illum adbúnadi. Þegar dagadi, var ofsavedur med frosti og kafaldi, og voru menn stirdir til-reika; fórum þó frá skipinu, og nádum landi í eiu einni, sem köllud er Ossjetta („Mauitsok"), hjerum 200 fadma frá ferju okkar. Ljet jeg þar grafa snjóhús, og tjalda ifir med seglum okkar. Sidan sóttum vid selaskinn, og tjöldudum allt ad innan; og mátti þá vel una vid híbilin. Enn hitt var lakara, ad ekki var til matar, nema tveir hráir selaskrokkar. Grænlendingum þóttu þeir gódir; og þegar jeg hafdi verid two daga matarlaus, leizt mjer einnig rád ad fara í krásina med þeim. Hjástodarmadurinn vildi ekki borda þetta, enda átti hann sjer 10 braudkökur, og át þær med spiki vid, tuggdi lika nokkud af rökudu selskinni, eins og vid hinir. Jeg hafdi eldsæri og eina spilkomu, og heittum vid i sifellu vatn i henni, og brenndum til þess tveimur árum af ferjunni. Þarna láum vid i 6 daga firir illvidrum og kafalsbiljum; var þá ísinn ordinn so fær, ad vid hættum til heimferdar, og drógum vid á virl millum okkar hjástodarmanninn, er mjög var ad þrotum kominn, var hann oss til hinnar mestu tafar, og vorum vid 24 stundir á heimleidinni, sem ekki var leingri, enn hálf öunur vika. Urdu þá fagnadarfundir;

því allir hjeldu okkur firir laungu dauða. Hjástoðarmaður lá allann veturinn, og var fluttur heim til Danmerkur, ári seinna. Við hinir vorum að øllu óskjemmdir.

Hrafnar og refir áttu glaða daga við leifarnar í skipinu okkar, og átu þar allt það sem nitt var; enn skipinu náðum við heim seint á þorra um veturinn, þó mjøg skjemmdu.

## 7. Grein.

### Vetrarvistir Grænlendínga.

Þegar Grænlendíngar koma heim á vetrarbústaði sína, taka konur first til húsa-hleðslu, sem er þeirra vinna; enn skjaldan standa veggirnir árlángt. Hús þessi eru fløt að ofan, hjerumm 3 álna há, og nokkuð grafin í jørðu; gaungin eru víða so lág, að skríða verður inn um þau á fjórum fótum, og á maganum þegar að fennir, því ekki eru úti-dirnar til að verja snjónum að filla þennann ámátlega rángala. Þegar búið er að biggja húsin, eins og þau eiga að vera, tjalda þær alla veggi annaðhvurt með skinnum, eða máluðum pappír, sem Danir selja þeim. Síðan eru lagðir af borðviði knjeháir pallar, allt í kring innan veggja; enn mitt gólfið er autt. Á þessum skákum sofa og sitja menn og konur. Þegar sofa skal, snúa allir høfðinu fram að gólfi, enn fótum til veggja. Kallmenn og kvennfólk liggja þar í einni flatsæng, með hreinskinn undir sjer, og annað ofan á. Hjónin eru vøn að leggja fjøl á rønd milli sín og annara.

Samt, þegar þau vilja skipta sjer hvurt af ødru, hverfa þau bædi uidruudir pallinn, þángad sem skugga ber á; því mørg ljós lifa øllum nóttum í húsi hvurju. Ljósakolur þær, sem Grænlendíngar brúka, eru holadar í stein, hjerumbil alinnar lángar, og brenna þeir þar í mosa og lisi, so ad loginn stendur eitthvad hálfa alin eda meira upp af kolubarminum. Í hvurju húsi eru 5 eda 6 þesshàttar ljósakolur, og standa umhverfis framan á skákunum, og veita þær ekki ad eins næga birtu, heldur einnig hita næstum því, óþolanlegann. Enda sitja Grænlendíngar þar ætíd allsberir ad ofan, og stundum burnalausir, enn breida þá skinnbledil framan á sig. Þad er annad gagnid ad þessum ljósakolum, ad ifir logann í þeim eru heingdir málelbakatlar („Kollusiuter"), og sodnar í krásirnar. Líka þurka konur ifir þessum glódum øll voskiædi, þvotta og selaskinn; so þó mikid lísi eidist í þennann ljósagáng, þá vinnur þad sig upp, med øllum notunum, er af því verda høfd.

Kallmenn á Grænlandi eru úti á veidum med skinnbáta („Kajakka") sinà hvurn dag vedurfæraun; hafa þá med sjer bissur og skutla, til ad veida seli og fugla. Stundum fara þeir ad sønnu óuitisferd; þó er hitt optar, ad veidi gjefst, ef ísar ekki banna. Þeir sem ekki kunna vel ad fara med skutul og bissu, veida karfa, marhnúta, og stundum flidrur, á haldvadi, sem hnittir eru saman úr skidi. — Konur sitja heima, enn hafa þó ærid ad starfa: moka fannir, høggva klaka, sækja vatn, og sundra veidi, einnig annast málelda, þvotta, sauma, og annad þvíumlíkt.

Kvøldvinna Grænlendinga er vøn ad vera sú, ad búa til søgur um þad, er vid hefur borid þann dag í hjeradinu á sjó eda landi. Opt er kvennfólkinu borid á brín, ad fara þá med fleiri frjettir, enn sannar sjeu; enda hafa þær þad ólán í fleirum løndum.

Þegar illvidri gánga, verdur Grænlendingum matvælaskortur; enn einginn madur heirir þá kvarta eda kveina, þó þeir svelti 3 eda 4 daga í sifellu — nema ef ekki er spik í ljósakolur þeirra, berast þeir illa af firir kulda. Þeir sofa þá nærfellt alla sultardagana, og er þá minna um kvøldsøgur kvenna, enn þegar nóg er ad bíta og brenna. Marhnútar og fjøruþáng er hardindamatur, þegar ekkjert annad fæst. Enn stundum banna ísar og illvidri ad abla þessa fædis, og eta þeir þá hvad sem ad munni kjemur: arnir, hrafna, hunda, tóur, gamlann skinnfatnad, skófot sín, og annad fleira.

Jeg ætla ad seigja frá søgukorni, so sem til dæmis um, ad Grænlendingar eiga bágt á vetrum, þegar ekki veidist. Skammt frá dønsku húsunum vid Sikurtopp bjó ekkja, er misst hafdi bónda sinn voveiflega. Mjer vard geingid inn til hennar einn vetrar-dag. Hún átti 6 børn; hid elzta var 8 ára, og hid íngsta ársgamalt. 4 elztu sizkinin sátu þá vid og voru ad eta hunzskrokk, hráann og úldinn, sem þau høfdu fundid á haugi, ásamt úldnum sela-gørnum, og fáeinum skinnbótum. Enn módirin sat þar adgjerdalaus, og hafdi íngstu børnin sitt á hvurju brjósti. Hún var kát og skrafhreifin, einsog hún átti ad sjer; enn mjer bløskradi, þegar hún ljet børnin frá, ad sjá blódtauma renna nidur úr bádum brjóstunum, og spurdi jeg hvad til

kjæmi; enn hún hafdi ekki etid neitt i 4 daga, og látid börnin sjúga sig eigi ad sidur. Jeg hljóp þá heim eptir 5 braudkökum, og gaf veslingnum. (Þá stód ekki so á firir mjer, ad þad gjæti heitid meira!) Enn módirin gaf sína köku hvurju hinna eldri barnanna, enn tuggdi þá sem eptir var upp í hin, án þess hún neitti sjálf eins bita; og eru mjer þetta minnisstæd undur módur-kjærleikans.

Þegar selir veidast, þá er mikid um kjæti þeirra Grænlendinga; skipta þeir þá jafnt milli allra, er saman búa i því hjeradi, og ber ekki veidimadurinn meira úr bítum, enn hinir, nema skinnid eitt. Firir þad kaupir hann kaffi, og gjörir af því veizlu vinum sínum. Þá er mikid um kjæti firir únga fólkinu, med dansi og knattleikum; og vakir þad opt alla nóttina i túnglskini, ef vedrid er gott. Og sona lídur veturinn þá i gledi og glaumi. Enn aldrei láta þeir, sem skírdir eru, hjálída, ad halda saung og bænir kvöld og morgna, og safnast þá saman i húsi lesarans.

## 8. Grein.

### Sumar-æfi Grænlendinga.

Þegar ísa leisir og fannir tekur upp á vorin, flitja allir Grænlendingar sig út úr vetrar-húsum sínum, og eru þau þá næsta full af sökkvandi foraraveitu. Sídan reisa þeir tjöld úr selaskinnum, og flitja þángad allt bú sitt, og hafa sjer til matar skjelfisk og hrognkjelsi, því þá er lítid um selaveidi. Þar á eptir koma first máva-egg og sidan ædar-egg, sem verda.

þeim að miklu happi. Síðan fara þeir í síldar-ver, og þá kjemur líka sumar-seluriun, og tekur þá að bætast í búi. Grænlendingar flitjast á kvennbáti um firði og eiar, með tjöld sín og allt hiski sitt og öll áhöld, sem ekki eru mörg, og má hjer telja þau, sem helzt eru: ljósakolur, og pottur úr steini, kaffiketill, og flaska til að melja með kaffibauuiruar, þegar búið er að brenna þær, kuifar og hornspænir, og nærurgögn þeirra, eitt eða tvö — sem ekki má skilja við sig; því upp úr þeim greiða og þvo konur höfuð sín og barna sinna; má vera þetta olli, að margir fá höfuðskurfur þegar á únga aldri, og halda þeim alla æfi síðan. Grænlendingar hafa hvurki kistur nje önnur ílát; því allt, sem þeir eiga, liggur út'á víðavángi; samt tekur einginn neitt frá öðrum, þó mörg tjöld úr ímsum áttum standi á sama stað.

Þegar Grænlendingar hafa aflað síldar og eggja, fara þeir í kaupstaðinn, og selja þar dún og skinn, eða það annað, er þeim hefur fjenast í ferðinni, og um leið fara þeir til fundar við prest sinn, til að skríast, taka aflausn, og láta gjefa sig saman. Að þessu búnu, fara þeir á hreindíra-veiðar, og róa sem leingst inn á fjarðarbotna, láta þar eptir bát sinn og tjöld, enn taka á sig gaungur til fjalla, og leita þá vandlega díranna. Á hvurri nótt, þegar illt er veður, riðja þeir upp kofa úr mold og mosa, til að bælast í; enn ella, ef vel viðrar, liggja þeir á bersvæði, hvar sem staddir eru. Konur, með börn á baki, filgja bændum sínum ifir þessi öræfi, til að elda mat og þjóna þeim; líka eru í ferðinni eldri krakkarnir, sem geingið gjeta. Þegar dír er skotið, flá konur það og

matbúa, og bera að hreisi því, þar sem náttstaðurinn á að vera. Ekkjert er Grænlendingum meira mein á þessu ferðalagi, enn mibit og ofurhiti við eltingar og hlaup um midsumarsleitið, meðan blitt er veður. Í þessum leiðángri liggja Grænlendingar 6 vikur, og hefur þá medal-veiðimaður skotið 100 dira; enn sá er annmarki á þessu, að mest af þjósinni liggur þar eptir handa hrafni og tóu. Skinn, mør og túngur hafa Grænlendingar með sjer til sjávar, og má vera dálitið af þurkudu kjøti.

Þegar heim er komið í midjum ágúst-mánuði, fiska þeir um hrið þorsk og heilagfiski, sem þá er nægð af; enn ekki fiska þeir meira, enn eið verður að kvøldi. Lika er selaveiði hvað mest á haustum — af vøðusel, sem þá er á ferð umhverfis strandirnar.

Í midjum september flitja menn sig aptur í vetrar-hibili sín, og búast þar um; því þá er optast nær fallinn snjór so mikill, að ekki er leingur vært í tjøldum að búa. Um þetta leiti eru Grænlendingar spikfeitir, eins og selir þeirra, undan ofátinu á sumrin; enn grennast því meir sem leingra liður á veturinn.

## 9. Grein.

### Um kaupstaðinn í Holsteinsborg.

Jeg var kvaddur til að fara norður að Holsteinsborg („Amerlok"), til að kjenna hákallaveiði þar eins og viðar. Birjaði jeg ferð þessa í midjum júlímánuði. Kaupstaðurinn liggur 30 vikum norðar, enn sá í Sikurtoppi, undir 66° 50′. Hálfann mánuð

vorum við á leiðinni, og ollu því norðanvindar; lentum þá víða við fagrar eiar, fullar af æðum og mávum; varð oss þvi hvervetna gott til matar, og þar að auki hlóðum við ferjuna af eggjum og dún, og var það þó allmikil hvalveiðaskúta, er mjer var fengin til ferða þessara. Norður hjer hækka fjöllin meira; þó virðast tvö skara fram úr hinum öllum; þau heita Prestafjall og Kjellingarhetta. Samt var ekki um þessar mundir töluverður snjór eða jökull á fjöllum þessum, enn margar fagrar hlíðar auka fegurð þeirra, og er þar sínu fegra og meira undirlendi, enn suður við Sikurtopp; þó er að aungvu önnur eins prýði, og öllum eiaklasanum. Millum hinna firrnefndu fjalla stendur Holsteinsborg, fram við sjó, á háum og fögrum graslendum, alsljettum; þaðan geingur firna lángur og breiður dalur inn á milli fjalla, og í honum firir víst 4 góð veiðivötn. Þessi kaupstaður er vel hýstur; eru þar bæði 8 timburhús, er Danir hafa biggt, og dáfögur kirkja, sú hin firsta, er biggð var á Grænlandi, eptir kristniboð Egjeða biskups; og er hún á stærð við þær, sem stærstar eru á Íslandi, enn öllu fegri og vel lituð.

Við Holsteinsborg er best æðarvarp og hreindíraveiði; þar er og hvalveiðistaða, nægð rostúnga, og gott fiskiver á haustum; enn minna er um selveiði, enn víða annarstaðar. Á 5 dögum feingum við þar 238 hákalla, ekki meir enn fjórðúng viku undan landi, á 16 faðma djúpi; og mun þar því nógt firir af þeirri veiði. Meðan jeg dvaldist við Holsteinsborg, undi jeg best hag mínum á Grænlandi, bæði sökum landsfegurðar, og margra hluta annara; enn að mánuði

lidnum, átti jeg ad snúa heim aptur í Sikurtopp, til þess ad hafa þar vetursetu. Þegar jeg var nýkominn heim, siktist jeg af skirbjúgi, og gat ad eins dreigid mig á tveimur hækjum húsa á milli, og mátti einkis neita, er tiggja þurfti, og vard því ad lifa allann veturinn á saman-sodnu øli og braudi, þartil um páskaleitid, ad mjer fór ad skána af hvønnum og skarfakáli. Hrátt etid mun þad besta lækning vid skirbjúgi.

## 10. Grein.

Um Gódvonar-kaupstad („Godthaab").

Þegar voradi, gjørdi jeg ferd mína á sama skipi, med 1 stúlku og 4 Grænlendinga, ad kaupstadnum Gódvon, sem Grænlendingar kalla „Númimut." Þad er høfudstadur lanzins, og þar hefur høfudsmadurinn („Inspecteuren") adsetur sitt. Þar er fagurt land, og mjøg fjølbiggt, bædi af Dønum og Grænlendingum. Høfudsmánns-bærinn er þar húsa mestur, og þá timburkirkja, allmikid hús, enn ekki so føgur nje vøndud, sem hin vid Holsteinsborg, er firr gat jeg. Fjórdúng viku burtu frá kaupstadnum búa þeir menn, er „Hernhúttar" eru nefndir; hafa þeir í summum greinum frábrugdna trú þeirri sem vjer høfum, vandlátir ad sidferdi, og fastheldnir mjøg vid ordatiltæki ritningarinnar. Þeir hafa tekid søfnud af Grænlendingum, skírt þá, og kjennt þeim trú sína; og eru firir þá søk þeir Grænlendingar, og þeirra søfnudur, út af firir sig, og hafa einnig kirkju sjer vid Gódvon hjá biggdum sínum, snotra, enn

ekki stóra; því sofnudur þeirra þar er ekki meiri enn 200 manns. Þad eru bágindi med þessa trúmenn: ad ógiptar stúlkur hlida ekki kjenningu þeirra, eins og vera bæri; því flestar af þeim brjóta hreinlífis-lögmálid, og ala, fremur ødrum grænlenzkum stúlkum, børn i leifisleisi, og hneixla med því sofnudinn.

Í Góðvonar-kaupstad eru mest hlunnindi ad hreindirum og fugli, líka er þar selveidi tøluverd. Eiar liggja frammi firir landi, er Kuggeiar heita, og mætti gjeta til, ad Íslendingar fornu hefdu first gjefid þeim nafnid; því hvurki á þad heima i døusku nje grænlenzku máli; enn kuggur er alkunnugt skipsheiti á norrænu; enda eru vída bestu hafnir vid eiar þessar, og móta þikir þar firir fornum tóptum. Enn hvad um þad er, þá-er vid eiarnar besta útrædi til fiskjar og heilagfiskis; og sækja Góðvonarmenn mjøg þángad á haustum, þó þær liggi 2 vikur undan landi. Líka er þar gott eggver. Eiaklasi þessi er víst 100 eiar, eda meir, þegar hinar smáu eru medtaldar.

Þar vid Góðvon reindum vid í 14 daga hákallaveidar, árángurslítid; því straumurinn er so mikill, ad ekki verdur leigid vid stjóra; og þó vid feingjum þar 18 hvolpa, mun þar verda lítid um veidi, þó frekar sje reint. Beggjameigin Góðvonar skjerast inn firdir miklir; má þar sjá mikid af bæabrotum Íslendinga, er þar hafa búid i fornøld; og þar jeg hafdi tóm til ad gagnkinna mjer báda firdina og tóptirnar, skal nú þess nokkud gjeta.

## II. Greinn.

Frá fornmenjum.

Í landnorður frá kaupstaðnum í Góðvon geingur sá fjörður, er kjenndur er við kaupstaðinn og kallaður Góðvonarfjörður. Hann er frá izta minni 16 vikna lángur, og skjerst þar að auki inn í margar víkur og voga; og eru þar á ímsum stöðum fornar tóptir. Úr þeim armi fjarðarins, sem leingstur er, og liggur í austur, og nú heitir Stórasteinsfjörður („Uiarak soak“ þ. e. stór steinn), geingur vík ein til norðurs; hana kalla Grænlendingar Mávavík („Naviangoit“ þ. e. mávafjöldi); í henni finnast hinar stærstu tóptir í þeim armi fjarðarins; hafa menn gjetið til, að þar hafi staðið Sandnesskirkja, og hefur þá fjörðurinn heitið Lísufjörður. Firir ofan sjálft flæðarmálið upp' á háum bakka, stendur þar tópt, hlaðin úr flötu grjóti, vel-lögudu; hún er 10 álna í hvurt horn; veggirnir eru 3 álna háir, og hjerumbil alinnar breiðir; af innri hleðslunni er mikið hrunið; þvert ifir dirum liggur hella mikil, 3 álna laung. Bigging á tóptinni hefur verið mjög vönduð. Skammt austur þaðan er girðíng ein, hlaðin úr torfi og steinum, viðast hvar alinnar há, 50 álna laung, og 36 álna breið. Hafi tóptin verið kirkja, er það efalaust, að girðíngin hefur verið kirkjugarður; þó sjer þar hvurgi marka firir leiðum. Skammt austur þaðan eru aptur húsatóptir, ekki fáar, sem standa í einum klasa, enn eru næsta niðurfallnar; glöggt má kjenna umhverfis tóptir þessar deili á ræktuðum túnum, þó nú vari víða á þeim líng og víðir. Firir sunnan túnin rennur á mikil, sem Grænlendingar seigja fulla af silúngi og

bleikjum; þar er og skógur mikill á sljettunum firir sunnan ána, fram eptir dalnum so lángt sem augad eigir. Hreindíri og hjerar eru þar ærna margir og fuglar umhverfis ströndina. Ekki mun heldur þurfa lángt fiskjar ad leita; enn vikina leggur fljótt, og mætti þad ad baga verda.

Í austurarmi ádurnefnds Lísufjardar er vogur sá, er nú heitir Stórlaravogur (Kappiselik" þ. e. stórlarar); þar hafa firrum stadid 2 bæir, og sjer þar enn tóptir allra húsanna; lika markar ljóslega firir túngördum alstadar þar um kring. Nidri vid sjóinn eru 10 grjóttóptir, er jeg ætla verid hafi hjallar, og mun þar gott til fiskifánga. Þar rennur á ein; í henni veidast nú afarstórir hreisturlarar, sem ekki fást annarstadar í þessum fjördum. Á þessi rennur gjegnum 3 stöduvötn, sem öll eru full af urrida og bleikjum. Efsta vatnid liggur hálfa dagleid upp frá tjedum húsatóptum; enn frá því er aptur snöggt um skjemmri vegur sudur i Ameralik", er sídar verdur nefnt. Þángad rennur lækur úr vatninn, eptir sljettum dal, fjalla á milli. Vatn þetta er á hvurn veg hjerum hálf vika; standa þar bæartóptir ófallnar, so ad enn sjer dirnar á hvurju húsi, og hefur bærinn verid likur þeim, er enn tidkast á Íslandi, og med þessari lögun og stærd:




Allgott hefur verid þar ad búa; því þar er graslendi mikid og fagurt, og skógur gódur, og laxveidi mikil, bædi vetur og sumar, í vøtnum og ám. Yfir ána, þar sem hún fellur úr nedsta vatninu, ekki lángt frá húsunum, þá er løgd steinbrú, sem enn er óspjølltud,

og standa mun um aldur og æfi; því so er húu vøndud og ramgjør, ad vøtu meiga eigi brjóta.

## 12. Grein.

### Um „Ameralik“ og fornmannaleifar.

Gódvonarkaupstadur stendur izt framm' á nesi; nordanvert nessins geingur inn fjørdur þessi, er nú var fráságt; enn ad sunnanverdu fjørdurinn „Ameralik“, sem ad øllum líkindum hefur heitid Ragnafjørdur. Hann er á ad gizka 10 vikur ad leingd. Frá izta minni fjardarins má telja 8 hjeradabrot landnámsmanna; enn Grænlendíngar seigja þó vera mørg fleiri.

Fremst í firdinum fundum vid stóra steintópt í vík einni, er Skotvík („Itiblik“, þ. e. skotstadur) heitir. Tóptin er vída mjøg hrunin, enn er þó audþekkt, ad hún er fornmanna-smídi; því veggirnir eru gjørdir úr vel-løgudum steini og smidjumó. Þar er litid um gras, enn skógur tøluverdur, og gott til berja og hvanna. Munu þeir, er þar hafa búid, meir hafa sótt sjávarabla, enn idkad landvinnu; því nægd er fiskjar, fugla og sela fram um eiarnar. 3 víkum innar í firdinum heitir Landleisa („Rimaugiæt“); þar sjer enn marka firir húsatóptum, þó þær sjeu gjørsamlega fallnar. Þar er nærfellt alls ekkjert undirlendi, og med øllu óbiggilegt. Hálfri viku innar vid Sundin („Ikarasak“) sjást enn tóptamindir, og er af þeim allt hid sama ad seigja, og hinum firri. Þessir 3 bústadir hafa ad líkindum ekki gjetad fleitt tøluverdum peníngi; enn vel liggja þeir vid sjávarabla og sel-

veidi. Þaðan skiptir Ragnafiørður (jeg ætla að kalla hann það) sjer í 2 greinir. Hin nirðri greinin liggur beint inn, og eru þar i botninum fornar tóptir; enn fátt er merkilegt af þeim að seigja; þó eru þar viða góðar graslendur. Austur-grein fjarðarins er að øllu fegri og biggilegri, og er þvert að róa frá Sundunum (Ikarasak) ifir þángað; kjemur þá first i vik eina stóra, sem køllud er Laravik (Ekkalluit þ. e. margir laxar); þar er marbakki firna hár frámmi firir strøndinni; enn sljett og fagurt undirlendi milli hárra fjalla. Í vik þessari hafa verið 2 bæir, annar sunnanmeigin, og liggur túnið i túngu milli tveggja lækja; hinn norður við á eina, sem auðug er af laxi, so við á svipstundu stúngum 24. Þar er skógur góður, viða runnar 4 álna-háir, og hrislur á digurð við mannshandlegg. Þar er og hið besta sildarver, og sækja Grænlendíngar mjøg þángað um sildar-timann; þar er og sela-veiði og karfa. 2 vikum innar i firðinum eru 2 bæa-rústir, gjørfallnar, og varið ifir af hvønnum og grasi; eigi hefir þar verið allbiggilegt, sakir fjalla og landkreppu. Innst úr þessum armi fjarðarins liggja 2 vikur stórar. Í hinni nirðri eru mestar fornmenjar á allri vesturſiðu landsins. Þar hef jeg talið 25 tóptabrot, og munu 6 firir víst hafa verið bæarhús, enn hitt imisleg útihús. Biggðin stendur fáa faðma upp frá sjávarbakka, sljettum og lágum. Steina-rústir standa þar niður við flæðarmál, og sina, að þar hafi verið hús nokkurt, sem nú er brotið af. Á kabla-korni i bakkanum sjást mannabein, mjøg fúin, standa fram úr moldinni hjer og hvar, og reindi jeg að draga nokkur út; enn þau tolldu ekki

saman firir ßúa sakir. Hafi tóptarbrotid verid kirkju-firrum, og beina-reitur þessi verid kirkjugardur, sem líklegt sínist, þá mun vera óhætt ad fullirda, ad þar hafi fordum stadid Anavík í Ragnafirdi, er sögurnar nefna. Firir midjum botni víkurinnar liggur enn ein-stakur bær, skammt frá hverfinu vid litinn flædilæk. Med flódum geingur mikill selur upp í hann, og mundi þar verda gód nótveidi. Þar um hverfid skortir hvurki skóg nje graslendur, og vídt sjer marka firir túnum og ökrum. Þadan og á fjallabaki liggur trodin gata, ekki leingri enn helmingur mílu, eptir sljettum og fögrum dal, nordur ad bæ. þeim vid stödnvatnid, er jeg gat um í Lísufirdi. Eistri víkin í botni Ragna-fjardar er ekki eins merkileg; þó seigja Grænlend-íngar, ad þar hafi stadid 2 bæir; og ekki skortir þar gras nje undirlendi. Úr sídri víkinni verdur ekki komist þángad landveg, því hár fjallmúli geingur fram milli hvurutveggi víkurinnar, og er ógeingur sakir bratt-leika. Jeg hef tekid eptir því, ad ár, sem lax er í, renna í grend vid öll hin fornu bæabrot, og hafa menn, ad líkindum, matid þá veidi meir enn fiskiródra, sem ördugt er ad sækja innan úr fjardabotnunum, nema med þvíad flitja sig í ver.

## 13. Grein.

### "Tunnulliarbik" vid Júlíönnvon.

Á sudur-enda Grænlanz, ekki lángt frá Júlíönu-von, liggur sá fjördur, er Grænlendíngar kalla "Tun-nulliarbik". Framan í minninu liggur ei ein. Fjörd-

urinn er næsta mikill, og umhverfis grænar hlídar. Hafa menn gjetid til, ad þetta væri Eiríksfjördur, og muni landinu nafn gjefid eptir hinum grænu skógarhlídum, er alstadar blasa þar vid; því ekki er þad vídar á Grænlandi. Vid "Epiutak" í þessum firdi hafa stadid 3 fornmanna-bæir á breidu og grösugu undirlendi, og má þar vada störina í mitt lær. Hálfri mílu ofar í firdinum hefur stadid einn bær, og sjer þar glöggt 3 húsatóptir. Skammt þadan eru enn önnur bæarbrot, mjög nidurhrunin; þó sjer enn móta firir túngardi og badstofu; enn allt er þad grasi kafid. Þar kalla Grænlendingar Moldarbú ("Irvsimiut"). Vikn sjávar innar í firdinum er vogur mikill, og þar hjá stórar sljettlendur grasi varnar. Þar á völlunum hafa stadid 2 bæir, og rennur á milli bæanna. - Önnur badstofu-tóptin er 17 álna laung, og 8 álna breid; enn hin litlu minni. Hafa bædi badstofur og útihús verid hladin úr grjóti, med torflögum í milli, allt eins og sidur er út' á Íslandi. Skógur er þar mikill og vel varinn milli fjalls og fjöru, þar kalla Grænlendingar Tánga ("Nougarsuk"). Upp' í botni fjardarins er enn bæarstædi, mjög fagurt, og mikid undirlendi, er blasir vid sólu, og er hvervetna varid skógi, vídir, töðugresi og blómgresi. Þar eru húsatóptir 3, mjög nidurhrundar. Skammt frá bæarstædinu rennur á ein, og er í henni gnógt silúngs og urrida. Dalir og sljettur liggja þadan upp í landid, og kvad þar hafa stadid 6 bóndabíli og einn kirkjustadur, sem gjetid er til, ad muni verid hafa kirkjan undir Sólar-fjöllum. Í allt telja menn, ad þar í firdinum hafi verid 20 bíli;

enn mjer gafst ekki færi á að skoða fleiri enn þau, er nú eru nefnd.

Á leiðinni til Júlíønuvonar, milli Jøkulfjarðar („Sermilik") og „Tunnulliarbiks", kom jeg á þann stað, er Grænlendingar kalla Sljettu („Narksak"). Þar hafa firrum staðið 4 bæir. Norðasta baðstofu-tóptin er 16 álna laung, og 9 álna breið, hlaðin úr hnaußum og grjóti. Af henni standa veggirnir enn, álinnar háir. Þar hjá eru 2 útihúsa-tóptir, hlaðnar af grjóti einu, og nær 2 álna háar. Í landsuður ekki lángt þaðan hefur staðið annað bíli; baðstofu-tóptin er 30 álna laung, og hrunin mjøg; þó stendur annar gaflinn, 2 álna hár. Þar hjá hafa verið 3 útihús. Í landnorður þaðan hefur staðið þriðja bíli; þar er baðstofa 20 álna laung og einnar betur, og 9 álna breið; þar eru 2 útihúsa-brot, mjög hrunin. Í landsuður þaðan hjerumbil 200 faðma, er hið 4. bíli; baðstofu-tóptin er 18 álna laung og 8 álna breið; fram undan bæar-dirunum hefur verið jarðhús, og inngángur til þess leigið undir gaunguum bæarins, þar eru hellur sljettfelldar ifir; jarðhúsið er enn 5 feta djúpt, og þakið þó fallið niður í. Á þessum 4 bæum hafa øll túnin leigið saman; sljettlendi mikið er umhverfis og grøsugt til hlítar; enn ekki er þar skógur, so neinu nemi. Á rennur niður á milli bæanna; í henni seigja Grænlendingar sje hin besta veiði; úti firir kvað þar einnig vera gnógt fiskjar: heilagfiski, þorskur og karfi. Þar í víkinni er góð skipalega, og hæg lending frammi firir bænum.

Skammt þaðan geingur inn sá fjørður, er Grænlendingar kalla Sjóðanda („Ounartok"), og menn ætla

ad heitid hafi Siglufjørdur. Þar er flatlendi mikid austanvert fjardarins, enn ærid hrjóstugt, og varid língi einu og óþrifa-mosa. Skammt firir ofan sjó stendur þar girdíng eín, 25 fadma laung, og 15 fadma breid; allir veggirnir eru næsta nidurhrundir, og má þar sjá steína stóra; girdíngin hefur verid hladin úr einusaman grjóti. Skammt þadan er bæarhús-tópt 18 álna laung, og 8 álna breid; húsid hefur allt verid biggt úr vel-løgudu grjóti og smidjumó. Þenna stad kalla Grænlendíngar Utgáng ("Annik"); ætla sumir, ad þar hafi stadid Vogakirkja, og hefur þá girdíngin verid kirkjugardur. Þó mótar ekkjert firir uppgjerdum leidum. Upp í fjardar-botninum eru enn 2 tóptir, og er sunnur 19 álna laung, og 8 álna breid, enn hin nokkru minni. Milli þeirra rennur á ein, sem laxveidi er í. Á bäkkanum eru 2 grjótdíngjur, enn eigi má sjá, hvurt verid hafa hús eda ekki, því eingin løgun sjest á þeim. Beggjameigin árinnar, lángann veg upp í milli hædanna, eru addáanlegar grasstjettur, og skógur allgódur í hvørutveggi hlídinni. Enn er sá fjørdur, er Grænlendíngar kalla "Agluitsok". Þar hafa verid 6 bíli; mesta tóptin medal þeirra er 20 álna laung, og 10 álna breid, og standa enn allir veggirnir gilda mannhæd ofanjardar. Þeir eru hladnir úr voldu grjóti, og þjettad med leíri og sandi milli laga. Þar eru hornsteínar milli 3 og 4 álna lángir, 2 álna breidir, og $1\frac{1}{2}$ alinnar þikkir, og eru allir saman nærfellt jafnir ad stærd og álíka lagadir, og lísa berlega manndómi þeirra, er húsid hafa biggt.

## 14. Grein.

### "Ikalik."

Firir sunnan Júlíønu-von liggur sá fjørdur, er "Ikalik" heitir, og firrum mun heitid hafa Einarsfjørdur. Þar eru nú 2 bæir, og hafa bændurnir fáeinar skjepnur; annar hafdi 15 nauta um vorid 1833 og nokkrar geitur; hinn fór ekki ad búa firr enn 1831, og hefur ekki nema 2 kír og fáeinar kindur, sem brádum munu fjølga. Eldri bóndinn er grænlenzkur ad módurkini, enn danskur í fødurætt, og heitir "Olsen"; hinn er sjálenzkur, og mun hann vilja reina, hvurt ekki meigi abla neinna korntegunda þar á landi.

Nú er ad minnast á fornmenjar í firdi þessum. Og er first vík, sem Laravík ("Ekkallnit" = laxamergd) heitir; hún liggur landsunnanmeigin í firdinum framarlega. Þar er mikid undirlendi, enn vída graslítid, og fallid í svørt fløg. Þar eru fornar bæatóptir hjerumbil 200 fadma frá sjó, mjøg nidurhrundar, og má ekki gløggt deila stærd þeirra. Þar hafa verid tún mikil og gód, og mundi enn hægt ad abla þar gódrar tødu. Húsin hafa verid mørg, eptir tóptunum ad ráda; enn óvíst er, hvurt þar hefur verid tvíbíli, þó líkindi þiki vera til þess. Sunnanvert vid túnid rennur á med laxveidi í; eptir henni hafa Grænlendingar gjefid nafn víkinni; því þeir seigja þar vera nógann lax á haustum. Ekki er þar skógur, enn mikid líng og vídir. Þrem mílum innar þessameigin fjardarins standa ønnur tóptarbrot. Þadan skiptist fjørdurinn í tvær víkur. Í botni hinnar eistri finnast þær forn-

menjar, er nú skal verda frásagt. Þar rennur á ein eptir føgrum dal; enn útsunnan-meigin árinnar stendur tópt mikil upp' á grænum hól; hún er 28 álna laung, og 17 álna breid, hladin úr fallegum hellusteinum; hjer og hvar standa veggir enn, seilingar-háir, og er þó vida nidurhrunid, einkum innri hledslan, so ekki sjáust vel deili firir gluggum; þó munu þeir hafa verid fjórir á sudurhlidinni, og dir á henni midri; veggirnir eru álstadar tveggja álna þikkir, og hefur líklega verid leir milli laganna, þó hann sje nú burtu blásinn; þar sem veggirnir standa óraskadir, eru þeir sljettir, sem hefladir væru. Kríngum þessa tópt er hladin girdíng, 30 fadma í hvurt horn, so líkindi eru til, þar hafi verid kirkjugardur. Er þad gáta mín, ad Gardastöll muni þar stadid hafa. Skammt þadan hefur bærinn stadid; þar má telja 7 stórar húsatóptir; enn þær eru næsta fallnar. Nidri vid sjóinn stendur steintópt, litt hrunin; hún er 15 álna laung og 9 álna breid; hella furdu-mikil liggur ifir dirum, enn dirnar eru tveggja álna háar; vindauga er á vesturstafninum, alinnar hátt, og litlu mjórra, og mun þetta hafa verid hjallur. Undan þverhniptu klettabelti austanmeigin bæarins er túngardur hladinn allt nidur ad sjó, sem enn stendur vídast hvar alinnar hár. Skammt firir nordan ána eru enn bæatóptir, mjög nidurhrundar. Þar í nánd er birkiskógur mikill og fagur, fram eptir hlídunum so lángt sem augad eigir. Í þessum fjardarbotni eru lángir leirar, og útgrinni so mikid, ad ekki verdur lendt nema med háflódi. Í hinum vestra armi "Ikaliks"-fjardar stendur first hústópt úr raudum steini, 200 fadma frá sjó; hún er

24 álna laung, og 10 álna breid, og snúr frá austri til vesturs, og eru veggirnir enn allt um kríng 4 álna háir. Mestallur sídri vegguriun er ekki nema jardfast bjarg; dirnar eru á vestur-endanum — þriggja álna háar, og tveggja álna breidar. Þessi tópt lísir kallmennsku mikilli; því flestir steinar eru þar í 3 álna lángir, og margir eins breidir, og ærid þikkir. Hjerumbil 100 fadma ofar á sljettuunni eru margar húsa-tóptir, og flestar so gjörsallnar, ad ekki sjer gløggt firir stærdinni, og ekki verdur talid firir víst, hvursu mørg húsin hafi verid; þó má fullirda, ad þar hafi ekki verid saman særri enn 6 bæir, auk allra útihúsa; øll bæarhúsin hafa verid biggd úr raudum steini. Stærsta húsid hefur verid 50 álna lángt innanstafna, og 8 álna breitt; hinar tóptirnar eru milli 20 og 30 álna lángar, og milli 8 og 10 álna breidar. Þar ad auki sjer móta firir 5 stórum útihúsum, þó ekki sjáist gløggt, hvursu stór þau hafa verid, og mikill klasi af smá-tópta-rústum, sem ekki verda taldar; samt eru þær firir víst 20. Firir nordan øll þessi hús geingur undan fjallinu túngardur mikill allt nidur í sjó; hann er 980 fóta lángur, hladinn úr hnausum og grjóti, og $1\frac{1}{2}$ alin á hæd. Þar sem þessi húsa-klasi er, mætti gjeta til, ad firrum hafi stadid høfudbólid Brattahlid, og Leidarkirkja, þó þad verdi ekki fullirdt.

## 15. Grein.

### Frá Hvítafirdi (Kakartok).

Þenna fjørd kalla Grænlendíngar Hvitafjørd (Kakartok = hvitur), og mun hann ádur hafa heitid

Hvalseiarfjørdur. Frammi vid fjardarminnid, upp' í dalverpi nokkru, stendur tópt, hladin úr hellugrjóti, 23 álna laung, og 9 álna breid. Hún er mjøg hrunin, þó eru veggirnir enn sumstadar 2 álna háir. Þessari tópt er skipt í þrjár minni tóptir, hjerumbil jafnar ad stærd. Sljettlendi er í kring; enn ekki grøsugt. Inn' í fjardarbotninum kalla Grænlendingar Læstn-vík ("Tessiursak" = lokada vík = leinivík?). Þar eru forn-tóptir margar; enn so eru þær gjørfallnar, og grasi birgdar, ad ekkjert verdur greinilega frá þeim sagt. Fram undan tóptunum liggur hólmi einn, og má gánga í hann þurrum fótum med fjøru; þar í hólmanum hefur stadid hús eitt, sem mjøg er nidurbrotid. Skammt í landnordur frá þeim húsabrotum rennur á í fjardarbotninn, er Grænlendingar seigja ad mikil veidi sje í. Í dalnum bádumeigin árinnar, eru fagrar grundir, og grasi varnar. Þessi dalur geingur á fjallabaki ifir í "Tunnulliarbik"; og er sá vegur ekki meiri enn hálf míla. Þadan má aptur gánga ifir í "Ikalik", so audsjed er, ad samgánga hefur verid millum allra biggdanna, sem hjer eru taldar, og er hvurgi meira enn svarar mílu milli fjardarbotnanna, enn feikna-vegur ef farin væri sjóleid. — Utnordanmeigin Hvítafjardar hefur verid kirkjustadur, og er sú tópt merkilegust allra forntópta, sem enn eru fundnar á Grænlandi. Hús þetta hefur stadid hjerumbil 30 fadma firir ofan sjóar-mál, so sem hálfri mílu framar enn fjardarbotninn. Tóptin snír frá austri til vesturs; hún er 25 álna laung, og 10 álna breid. Veggirnir hafa verid háir mjøg; hledslan á austurstafninum stendur enn 11 álna há, og hvurgi

eru veggirnir lægri enn 4 álna. Á sudurhlidinni eru fjórir gluggar, og tveir á austurstafninum; þeir eru tveggja álna háir, og 1½ alin a breidd; hinir á hlidinni hafa verid nokkru minni. Tvennar dir hafa verid á þeirri hlid kirkjunnar, adrar inn í kórinn, austur vid stafninn, enn hinar nidur vid vesturendann. Kór-dirnar eru 2 álna og 15 þumlúnga háar, enn alinnar og 8 þumlúnga breidar; hinar eru 3 álna háar, og alinnar og 12 þumlúnga breidar. Enn eru þridju dir á vesturenda húsins, 3 álna og 13 þumlúnga háar, og 2 álna breidar. Ifir þessum dirum liggja hellur, og er hin izta hellan 6 álna laung, alinnar breid, og 8 þumlúnga þikk; hinar tvær hellurnar eru nokkru minni. Ifir dirum þessum er gluggi upp'í stafninum, hjerum 1½ alin á hæd, og 16 þumlúngar á breidd. Allt um kring innan í veggjunum á húsi þessu hafa verid múradir skápar, líklega til ad heingja i klædi manna. Þessi tópt er vandlega hladin, úr steini og leiri. Kríngum hana er hladinn gardur úr torfi og grjóti, enn hvurgi sjer þar leidi eda legsteina. Sjø fadma vestur undan kirkjugardinum hefur bærinn stadid, hladinn úr steini og leiri (eins og kirkjan). Hústóptin er 19 álna laung, og 13 álna breid; veggirnir eru 2½ alin á hæd; bæar-dirnar snúa móti kirkjunni, og eru 3 álna háar, og 2 álna breidar. Tvær glugga-tóptir eru á austurenda eda landsudur-hlid tóptarinnar. Þar ad auki finnast 6 tóptarbrot af útihúsum, hladin af steini. Tóptir þessar liggja undir háu fjalli, og er þar undirlendi ekki mikid, enda sprettur þar ekki nema ling og mosi. Firir austan kirkjutóptina rennur mirarlæk-

ur, sem að líkindum hefur verið neizlu-vatn, enn er ekki allgott. — Hef eg nú talið þau hin helstu bæabrot á Grænlandi, þó mørg fleiri kunni þar að vera. Að austurbiggðin hafi aldrei ønnur verið, enn sú, sem hjer er nefnd, það er nú fullsannað, bæði af ferðum "Graahs" og søgum Grænlendinga sjálfra, er þaðan hafa komið; og vil eg því kalla þessa biggð Suðurfirði, af því hún liggur øll sunnanvert á landinu, nema báðir Góðvonar-firðirnir, er til vesturs horfa. Hvarf á Grænlandi, er gjetur um í søgunum, mun vera høfði sá, er Danir kalla "Statenhuk", a landsuðurhorni Grænlanz; það er hnúkur, er sjest 15 víkur undan landi. Fjøll suður þar eru øll lægri, og undirlendið betra, enn norðvestanvert. Þar eru hæst fjøll "Hjortetakken" og "Sadelen", og "Findefjæld", sem nefnt er í fimmtu grein. Þessi þrjú fjøll sjást, þegar bjart er, 30 víkur af sjó. Á suður-biggðinni hafa verið talin hjerumbil 100 bili, enn ekki fleiri enn 20 á vestur-biggð.

## 16. Grein.

### Frá siðum og skapferði Grænlendinga.

Skapferði Grænlendinga er meinlaust og blítt; spaklindi, frjálsræði og jøfnuður eru þar á meðal þeirra, því einginn setur sig upp ifir annann; hvur einn má lifa og láta eins og hann vill. Allir virða þann sem er heppinn veiðimaður, og meta mest tilløgur hans, og eru ingri menn fúsir að hlíða honum og hans ráðleggingum. Nú þótt að Grænlendingar

sieu þannig i sjálfræði sinu laga-lausir og ifirvalda, eru þeir sidlátir og hæverskir og þrátta sjaldan, og beri sy vid, þá med hæglæti og meinlausum ordum; þvi ekki kunna þeir ad blóta nje formæla, þar eingin þesskonar ord eru til i máli þeirra, og ekkjert hrakirdi nema þetta: "ajorputit" (= þú ert ónitur); þad er mest reidi-irdi þar i þvi landi, og þad láta Grænlendingar duga med nokkrum hótunum.

Mjøg sjaldan verda menn varir vid ástar-brøgd kalla og kvenna; þad þikir ósidur ad láta vel ad konu sinni, med kossum eda þviliku, þegar einhvur sjer til, enn ógjørningur ad leika þannig vid ógiptar stúlkur; þó eru dæmi til, ad slikt hendir i leini. Enn verdi stúlka barnshafandi, vita þad allir undir eins og hún sjálf, þvi hún gjerir sjer upp grát einn eda fleiri daga, þángad til náúngarnir gjeta i kollinn, og seigir hún þá upp alla søgu, nefnir filgjumann sinn, og stadi og stundir allra þeirra samfara. Fer þá optast so, ad hann tekur hana sjer til konu; enn þó er þad eingin skilda. Hvurki skirdir menn nje heldur heidingjar eiga sjer nákomid ad frændsemi; enn sumir heidingjar eiga 2 eda 3 konur i senn.

Grænlendingar eru frábitnir gripdeildum, einkanlega sin á milli, og hafa hvurki hús nje hirzlur, ad geima i faung sin; þvi þó allt liggi út á vidavángi, tekur einginn þad, sem hann veit ad annar á. Ad hnupla frá Dønum þikir minni sind, ef færi gjefst á. — Grænlendingar eru hyglausir og ragir ef á er reint, og rekur einn danskur madur fjóra Grænlendinga á flótta sem hægast. Þeir eru hreifilátir, og þikjast umfram adrar þjódir, og kalla sig eina m e n n ("Innuit") enn adra

adskota-dir (Kablúnakka). Öllum Grænlendingum, sem ekki eru kinblendingar, má þannig lísa: þeir eru lágir vexti, hrafnsvartir á hár, stinnhærdir og sljetthærdir; þeir eru skjegglausir og vara-þikkir, úteigdir, og móraudir á ifirlit, vödvamiklir og beina-mjóvir, manna hvatastir á fæti, og vel náttúru-hagir til allra smída. Af konum er allt hid sama ad seigja; þó eru þær hárprúdari; margar þeirra eru þar á ofan smá-hendtar og fótlitlar.

## 17. Grein.

### Kaupskápur Dana vid Grænlendinga.

Á Grænlandi eru alls 14 kaupstadir. Dana-konúngur gjerir þángad 6 eda 7 stórskip á ári hvurju med ímislegar naudsinja-vörur. Samt eru þær ekki gjefnar; því firir spikstamp, sem tekur 5 kvartil, fá þeir ad eins 2 ríkisdali; þó fæst ekki út á þad matur, nje kaffi, heldur klútar, látúns-hríngir, tóbak og þvinnlikt. Firir selskinn og refskinn fá þeir ad nokkru leiti kaffi, enn ekki firir hreindíra-skinn. Firir bestu refskinn er gjefinn 1 rd., og firir bestu selskinn 24 skild., og eru 2 látin firir eitt kaffi-pund. Grænlenzkar stúlkur eru heldur glisgjarnar, og kaupa helst perlur og silkiborda, fallega klúta og látúns-hrínga í eirun og á hendur. Þessa hríngi meta þær ad jöfnu vid gull. Margar af þeim taka líka í nefid. Enn kallmennirnir taka bædi í nefid og upp í sig, og reikja þar á ofan, og geingur þar út mikid tóbak á ári hvurju. Þad er skjaldan dirara, enn hálfann dal. — Margir

Grænlendingar, sem eru útlenzkir i adrahvurja ættina, þjóna ad kaupverzlun, og hafa kaup og fædi eptir efnum og ástædum. Enda þjakast þeir einatt af þúngri vinnu og mørgum lífsháska; þvi ekki tjáir þeim ad mæla i móti neinum þeim starfa, sem firir þá er lagdur.

## 18. Grein.

Trúarbrøgd Grænlendinga forn og ní.

Hinir heidnu Grænlendingar trúa þvi ad sønnu, ad til sje ein ódandleg vera, sem þeir kalla "Tornasok" (kristnir Grænlendingar kalla fjandann þvi nafni); enn ad frásøgn þeirra er hann fremur vondur enn gódur. Þótt hann sje ódaudlegur, á hann ømmu eina; þad er ljót kona, og rædur ifir øllum sjódirum; og þegar hún lokar þau inni i stórum hellrum nidr' undir hafsbotni, fá Grænlendingar ekkjert ad veida; og stundum er hún so ónotaleg, ad reka alla marhnútana i felur, og verda þá spámenn ("angekok") ad leita nádar hjá henni. Ekki hefur "Tornasok" eda amma hans, skapad heiminn; þvi veraldin, þ. e. Grænland, er sjálfkrafa varin upp úr hafinu, og skømmu sídar hinir firstu menn upp úr tveimur þúfum. Spámønnunum ber ekki saman um "Tornasok": nokkrir seigja, ad hann sje andi, adrir kalla hann dír, og hinir þridju seigja hann sje i mannsliki. Adsetur hans er lángt nidr' undir jørdunni; og er gott ad vera þar hjá honum; þvi nóg er þar af sel og ødrum sjó-dirum. Hvurki tilbidja, elska nje dirka Grænlendingar "Tornasok". Þegar

allt leikur í lindi, hirda þeir ekki um hann; einúngis í sóttum og hallæri flitja spámennirnir mál manna firir honum og ömmu hans, og seigja frá andsvörum þeirra. Þeir verda ad fara til þess nidur undir jördina, og eru þad tídum svadilfarir. — Tvennar vistarverur eru til eptir daudann; önnur nedanjardar, og koma þar ad eins þeir hinir farsælustu, þvi sá er stadurinn öllu betri. Hin er á himnum; þar er ekki annar eins sælustadur, og eru nordurljósin filkingar þeirra sálna, er eiga þar bústadi; mun þeim vera kalt, og eru þær ad knattleikum nætur allar. Sól og máni eru grælenzk sistkini, sem firr meir hafa búid saman nordur vid Upernavik; þá fjekk bródirinn óleifilega ást á sistur sinni, þvi hún var afbragz-fögur, og vildi leggjast med henni; enn hún reiddist, og fór uppá himin, enn hann á eptir, og eltir hana, enn gjetur ekki nád henni. Firir þvi er hann ordinn fölur og firirgeingilegur af áhuganum. Hann er næsta lauslátur, og verda allar stúlkur ad fordast hann. Þegar fullur máni skín á læk, eda vatn, verda konur barnshafandi, ef þad vatn drekka; ekki má hann heldur skína á þær sáflæddar, ef allt á vel ad fara. Himni, hafi og jördu filgja imsir andar, sem varast er ad stiggja, so ekki komi illvidri og öll óáran. Allir Grænlendingar, skírdir og óskírdir, trúa vofum og apturgaungum, álíka og fleiri þjódir. Alfar búa í klettum, og gjegna þegar hátt er kallad. Þegar Grænlendingar drukkna, má bædi heira og sjá svipi þeirra, þegar þeir alvotir draga báta sína med læri um fjöruna.

Hinir skírdu Skrælingjar hafa ödlast sælli trú, og rækja hana vandlega. Nú er ekki ordid meira enn so sem fjórdi partur fólks heidid í landinu af 6000=um manna, sem þar eiga heimili; og er líklegt, ad brádum verdi landid allt kristid.

## Lítill vidbætir,

### um háttu Grænlendinga, þá er nitir mundu út' á Íslandi.

#### 1. Skollagildrur.

Þad er kunnugra enn frá þurfi ad segja, hvursu mikid ógagn tóur gjera sveitabændum hjer á Íslandi, og hvad þad er kostnadarsamt, og þar ad auki opt og einatt árángurslitid, þó skotmenn sjeu tilfeingnir, ad vinna gren. Því tel eg bændum rád, ad setja skollagildrur í landeignum sínum. Enn skollagildrur eru þannig gjørdar á Grænlandi, ad hladin er dálítil grjót=tópt, alin á leingd, og hálfa alin á breidd, og innri gaflinn hafdur úr trje, og í honum midjum afsleppur tappi, er eg kalla agntitt; þar á er agnid heingt. Sidan er þakid ifir húsid med hellusteinum, mosa, eda ødru því, sem næst er hendi. Þvínæst velja menn sjer hellublad, þannig lagad, ad filla megi dirnar; um þad er bundid snæri, sem nái ifir þakid, med likkju á endanum, sem gjegnum lítid gat, rjett vid gaflinn, verdi krækt á agntittinn firir framan sjálft agnid; ekki má snærid vera leingra, enn hurdar=hellan í því hángi ifir dirum, þegar likkjunni er smeigt á ittinn. Seinast eru hladnir stuðlgr eda lausakampar

firir endum-veggjanna, so ad hurdarhellan skordist þar á milli, þegar hún fellur. Nú þegar skolla ber ad húsi, bitur hann í agnid, og losar hvurtveggja í senn, snærid og agnþrádinn, enn hurdin fellur nidur, og lokar skolla inni, so ekki er útgaungu-kostur, og duga honum eingin umsvif nje vjelrædi, ef húsid er ramgjört til hlítar. Líka má búa til úr trje skolla-gildrur, med sama hætti og músagildrur, og hafa þeim mun stærri og sterkari, sem dírin eru meiri vartar og krapta. Þetta ættu smalar ad vinna, og væri þad bædi gagn og dægrastitting; því fleiri gildrur sem biggdar eru, því veidivænlegra er. Þá er sjálfsagt, þegar gren finnast, ad búa til undir eins eina eda fleiri, egna vel, og vitja um á dægri hvurju; og eru þá öll líkindi til, ad tóa vinnist, ef kjænlega er tilhagad. Jeg held ad grjót-gildrurnar verdi bestar; því refar munu halda þar sje urdarhola; líka veit jeg, ad þær eru veidnari. Tel jeg mjer víst, ad þessi veidiskapur verdi happasælli, enn skotmenn á grenjum, og skothúsa-legur; bæri því hvurjum bónda, einkum ef hann er hræddur um dírbitir, ad hafa sem flestar gildrur um búfjárhaga sína alla. Þá adgjætni þarf hjer líka vid ad hafa, þegar fennir í gildrurnar, ad hrófla burtu snjónum, og hafa gjætur á snæris-likkjunni, so hún frjósi hvurki nidur vid þekjuna, nje heldur utan um agntittinn. Gildrurnar eiga ad standa þannig, ad vatni veiti frá í leisingum, so ekki festi klaka í og veidin spillist.

## 2. Um hvilupoka.

Þegar Grænlendingar ferdast ad heiman, og búast ekki vid, ad ná heim aptur ad kvöldi, eru þeir

vánir ad hafa med sjer hvílupoka, og þikir þá einn gilda, hvar tekinn er náttstadur. Pokinn er so lagadur, ad rjettur madur gjeti í hönum leigid; hann er hjerumbil þriggja álna lángur, enn alin á breidd ifir bringuna, enn botninn nökkru mjórri. Op er á pokanum um þad bil, er herdarnar nema vid; þadan er rifa nidur eptir midjunni, so stór, ad inn verdi komist, enn meira ekki. Ofan vid þver-opid er saumud hetta so rúmgód, ad höfudid komist þar firir á litlum svæfli, og hægt sje ad snúa sjer til beggja hlida; sídan er saumud bladka eda loka á hlid pokans, og breidd ifir opid þegar sofid er, og má þá hneppa ad sjer, eda reima. Allt ifirbirdid er saumad vatnsheldt úr selskinnum, sem hárid er numid af, og vatni heldur; fódrid er úr hreindirafeldum, og veit hárid inn. Þad kjemur ekki þad heldur, ad kulda nje vætu þurfi ad óttast, þó leigid sje á bersvædi, hvurnig sem rignir eda fennir, ef pokinn er vel saumadur, og slíkur ad lögun, sem nú hef jeg greint. Væri næsta óskandi, ad Íslendingar, sem ferdast þurfa á vetrum, vildu ad þessu leiti hafa háttsemi Grænlendinga, og mundu menn þá, sjaldnar enn nú er títt, verda þar úti. Pokinn er ekki meira enn fjórdúngur á þingd, og má hann hæglega med sjer bera, þegar geingid er, enn fleigja hönum ofan á milli, þegar med hesta er farid. Sjómönnum í veri væri hann og besta sæng, og mætti þá til mikinda hafa undir hei eda mosa. Öllum er alhægt ad vera sjer út' um hann á Íslandi. Mætti hafa kálfskinn og litud gód sandskinn í ifirbordid, enn gjæruskinn í fódrid, lodin og vel elt. Sumar og vetur þikir sem hvílu-

voki þessi væri ómissandi øllum lángferdamønnum, eins og allir mundu sanna, ef farid væri ad tídka þá.

### 3. Klædasnid og vetrarføt úr skinnum.

Litill eda einginn munur er á vetrarhørku Íslanz og Grænlanz, sem þar af má ráda, ad "Sikurtoppurinn" á Grænlandi midju og Stikkishólmur á Íslandi liggja næstum jafn-nordarlega. Enn næsta ólíkur er klædnadur og útbúnadur þeirra manna, er úti í kulda þessum eiga ad vera, í hvurutveggja landinu; enda verda menn ekki úti á Grænlandi, eins og opt hendir Íslendinga; og skal hjer ad nokkru lísa búningi Grænlendinga á vetrum, þeim til íhugunar, er það vildu gaumgjæfa. Þegar Grænlendingar ætla út á vetrardag, fara þeir í tvøfaldann stakk, so sidann, ad nái nidur firir mjadmir. Hann er heill á bringunni, og saumud á hetta, sem nær ofan á brír til ad skíla hálsi og høfdi; opid firir andlitinu er so vitt, ad høfudid kjemst út og inn um það; því ef ekki er heljarvedur, láta menn hettuna liggja í brotum aptan á hnakkanum, enn draga hana ifir høfudid í jeljum og hardvidri. Nærstakkurinn er úr hreindira-skinnum, og snúid inn hárinu, enn utan ifir ern lodin selskinn, og snúid út hárinu, og meiga allir nærri gjeta, hvurt hann hlífir ekki, hvada vedur sem er. Upp undir stakkinn, utan ifir nærburunum, eru girtar selskinna-brækur lodnar og skósidar, og snúid út hárinu med sama hætti. Á fótum hafa Grænlendingar skinnsokka, enn aungva skó; því hamledur vatnsheld er saumad undir ilveiginn, sem af skal taka og nitt undir festa, þegar gatgeingid er. Sokkarnir ern úr vatnsheldu selskinni,

sem hárid er af numid, fódradir med hunz-skinni eda hreindirs-skinni. Þar innan undir hafa Grænlendingar ullarsokka næst sier, so ekki er hætt vid þeim kólni. Á höndum hafa þeir ullarvöttu, og draga þar utan ifir vetlinga úr vatnsheldu selskinni, einkum ef fjalla skal um eitthvad, sem er vott eda snjóugt; og er so til hagad, ad saumarnir liggi á handar-jödrunum, enn ekki i lófunum. Enn hafa Grænlendingar stakk og brækur úr vatnsheldu skinni ad fara i izt fata, ef þeir ætla á sjó, eda vera úti i hridum og rigningum. Er þetta, sem nú er greint, alklædnadur hvurs eins, sem úti er á vetrardeigi. — Efni hafa Íslendingar i allann sama búnad, og hjer er talinn; þvi þar sem ekki eru fáanleg hreindiraskinn, má hafa lambskinn og snodin giærnskinn i stad þeirra; og vanti sumstadar selskinn, eiga flestir saudskinn og kálfskinn, er lita mætti blá, og elta, og hafa i ifirbordid; mætti sá fatnadur verda bædi ásjálegur og hlír og nitsamur. Ætti þetta ekki ad vera hiegóma-mál firir lángferda-menn á vetrum, sem nokkra varúd vilja hafa á lifi sinu og heilbrigdi.

---

## Inntakid.

| | | blſ. |
|---|---|---|
| | Til lesarans | 3. |
| 1. Grein. | Frá Grœnlandi | 5. |
| 2. — | Firsti morgun á Grœnlandi | 6. |
| 3. — | Dránganeſs-ferd, og fleira | 9. |
| 4. — | Hákallaveidi vid Margvidru (‘Ikamiut’), og grafir heidinna Grœnlendinga | 11. |
| 5. — | Hreindira veidi og heiſkapur vid Sund (‘Karſuk’) | 14. |
| 6. — | Kaupferd til Margvidru | 17. |
| 7. — | Vetrarviſtir Grœnlendinga | 20. |
| 8. — | Sumar-œfi Grœnlendinga | 23. |
| 9. — | Um kaupſtadinn i Holſteinsborg | 25. |
| 10. — | Frá Gódvonar-kaupſtad | 27. |
| 11. — | Frá fornmenjum | 29. |
| 12. — | Um ‘Ameralik’ og fornmannaleifar | 32. |
| 13. — | ‘Tunnulliarbik’ vid Júlíanuvon | 34. |
| 14. — | ‘Ikalik’ | 38. |
| 15. — | Frá Hvitafirdi | 40. |
| 16. — | Frá ſidum og ſkapferdi Grœnlendinga | 43. |

blſ.
17. Grein. Kaupſkapur Dana við Grænlendinga 45.
18. — Trúarbrøgð Grænlendinga forn og ni 46.

Viðbætir.

1. Skollagildrur . . . . . . . . . . 48.
2. Um hvilupoka . . . . . . . . . . 49.
3. Klæðasnið og vetrarföt úr ſkinnum . . 51.

